# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga.*
*gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

17. ÁRG. WINNIPEG, APRÍL 1902. NR. 2.

## Sálmr

eftir séra VALDEMAR BRIEM út af Jóh. 5, 24—29.

(Lag: Faðir andanna.)

1. Kirkjan stríðandi
kallar bíðandi:
Kemr endirinn alda.
Lífssólin ljómar,
lúðrinn hljómar.
Drottinn dóminn mun halda.

2. Djúpt í gröfunum,
djúpt í höfunum
kynslóð liðinna lýða
blíðlega blundar,
bíðr hans fundar,
bíðr frelsarans fríða.

3. Sólin rennandi
brunar brennandi
fram úr ljósfögrum lundi.
Kristr þá kallar,
kynslóðir allar
vakna værum af blundi.

4. Upp úr gröfunum,
upp úr höfunum
látnir lifandi rísa,—
mörg milíónin,
mörg bilíónin;
sigri lífsins þeir lýsa.

5. Dœm mér, dómandi,
dýrðar-ljómandi
lífsins ljós-krónu sanna.
Lífsstundir linna;
láttu mig finna
landið lifandi manna.

# Í skugga hins almáttuga.

Eftir séra Rúnólf Marteinsson.

---

*Hver sem býr undir varðveizlu hins æðsta, sá hvílir óhult í skugga hins almáttuga.*—Sálm. 91, 1.

---

Hvernig á maðr að skilja þessa grein? Með hverju móti getr maðr fengið mest út úr henni, haft mest gagn af henni? Á maðr að tœta hana sundr, orð fyrir orð, til þess að sýna málfrœðislegan lærdóm *sinn?* Á maðr að hanga í orðum og formum til þess að sýna *sitt eigið* hugvit? Á maðr ekki heldr að gjöra sér sem ljósast, hvað *höfundrinn* átti við með þessum orðum? Ætti það ekki að vera ætlunarverk vort, að finna kjarnann í hagsaninni?

Það er margt í biblíunni, sem ekki verðr skilið nema maðr þekki þjóðina, sem hana leiddi fram, Gyðingaþjóðina, ekki einungis að því er snertir sögu, heldur einnig, meðal annars, landslag það, sem þjóðin þekkti. Til þess að skilja einn höfund til hlítar þarf maðr helzt að geta hugsað eins og hann; en það getr maðr ekki til fulls nema maðr þekki hinar ytri ástœður, sem hafa haft áhrif á hugsan hans.

En hvað þýða þessi orð sálmaskáldsins?

Það er varpað nýju ljósi yfir þau, þegar maðr athugar eitt einkenni landslags þess, sem Gyðingarnir þekktu. Það er eyðimörkin. Í suðr og austr frá Gyðingalandi liggja stórkostlegar eyðimerkr.

Hugsið yðr, kæru lesendr, mann á ferð í gegn um eyðimörkina. Svo langt sem augað eygir er eintóm auðn. Sumsstaðar er ægisandr, sem liggr í bylgjum eins og hafið. Þegar vindrinn blæs, þyrlast sandrinn í loft upp og lemr ferðamanninn í framan verr en nokkur snjóhríð. Sumsstaðar eru berir, gnæfandi klettar, hrikaleg björg og gapandi gjár. Sumsstaðar eru smásteinar með hvassar raðir, sem skera skó og fœtr ferðamannsins—, svo blóð hans drýpr í sporin. Hitinn er steikjandi, þorstinn kveljandi, vatnið þrotið. Sandbarinn, þreyttr, blóðugr, þyrstr nærri til dauðans þráir ferðamaðrinn „einn dropa af vatni til að kœla tungu sína". Hann þráir að

flýja undan hinni grimmu sól, sem kvelr hann. En hvert á hann að flýja? Er nokkuð annað fyrir hendi en dauðinn á þessum skelfilega stað?

Allt í einu sýnist honum hann sjá lund í nokkurri fjarlægð. Skyldi það í raun og veru geta verið svo? En áðr en langt líðr er ferðamaðrinn kominn í lundinn, kominn úr jarðnesku helvíti í jarðneska paradís. Þar er tær, svalandi uppsprettulind, grœnt gras, angandi blóm, ilmandi ávextir, og umfram allt stór skuggasæl tré. Ferðamaðrinn svalar sér úr lindinni og hvílir sig í skugga eins trésins. Þarna er hann óhultr. Þó eyðimörkin sé örskammt frá, með sína dauðans auðn og brennandi sól, getr hún samt, með öllum sínum kvala-undrum, ekkert sakað hann þarna. Hann „hvílir óhult í skugga“ trésins.

Það er til önnur eyðimörk, eyðimörk mannlegs lífs. Á henni eru staddir allir, sem eru án guðs í heiminum. Hún er œgilegri en nokkur eyðimörk í ríki náttúrunnar, því hún nær ekki einungis að takmörkum hins jarðneska lífs, heldr er hún bústaðr þeirra í eilífðinni, sem dvalið hafa í henni hér í tímanum.

Án guðs er tilvera heimsins óskiljanleg, mannlífssárin grœðslulaus, maðrinn sjálfr tilgangslaust dýr, tilveran öll blind heimska. Án guðs væri það, sem bezt og almennast er innblásið í mannlegar sálir á öllum tímum og öllum stöðum, lygi, og þar af leiðanda væri enginn sannleikr finnanlegr fyrir manninn nokkursstaðar. Hvílík eyðimörk!

Hugsið yðr mann staddan á þessari eyðimörk. Fyrir honum er mannlífið eintóm gróðrarlaus auðn. Þar er ekkert fagrt, ekkert, sem svalar, ekkert, sem huggar. Stormarnir skella á; en þar er engin hönd, sem styðr. Honum blœðir á grjóturðum lífsins; en þar er enginn, sem grœðir. Sólarhitinn steikir; en þar er ekkert hæli til að flýja í.

Jú, eitt. Jesús segir: „Komið til mín, allir þér, sem erviðið og þunga eruð hlaðnir; eg vil gefa yðr hvíld.“ „Eg em vegrinn, sannleikrinn og lífið; enginn kemr til föðursins nema fyrir mig.“ „Hver sem vill, hann taki gefins lífsins vatn.“

Þannig býðr Jesús öllum mönnum að leiða þá úr eyðimörkinni og yfir í lundinn síns himneska föður. Sá, sem ekki þiggr boðið, verðr kyrr í eyðimörkinni. En hver sem flýr í lundinn, getr stöðugt svalað sér á lífsins vatni, endrnœrzt af ávöxtum guðs orðs, í öllu sínu mótlæti fengið huggun, og jafnvel mitt í sínu erviði hvílzt í skugga guðs náðar, er ver hann fyrir þeim öflum, sem vilja gjöra sál hans að eyðimörk. Að flýja til guðs frá syndum sínum er ætíð eins og að flýja úr eyðimörk í hinn inndælasta lund. Sá, sem velr sér stöð hjá guði, er eins og sá, sem dvelr í skugga trés. Þetta er þýðing orðanna, sem vér byrjuðum með og nú endum með:

,,Hver, sem býr undir varðveizlu hins œðsta, sá hvílir óhult í skugga hins almáttuga.''

## Nýja Íslands-ferð.

Síðan skömmu eftir ársþing kirkjufélagsins hið síðasta, það er haldið var á Gimli, hefir við því verið búizt, að kirkjan í Mikley yrði vígð í Marzmánuði þetta ár. Um sama leyti virtist þá einnig hentugt að hafa nokkra trúarsamtalsfundi í Nýja Íslandi. Og stóð jafnvel til, að einn slíkr fundr yrði haldinn í hverjum söfnuði þar. En er fœrðist þeim tíma nærri, var sýnt, að eigi myndi unnt að hafa nema fáa fundi, helzt sökum þess, hvernig á stóð fyrir prestunum, sem heima eiga í Nýja Íslandi. Séra Oddr V. Gíslason gat ekki verið heima í þeim mánuði, og séra Rúnólfr Marteinsson var talsvert bilaðr á heilsunni, svo að ekki virtist á það hættanda að framfylgja hinni upphaflegu fundahalds-hugsan. Niðrstaðan var sú, að auglýsing var látin út ganga um trúarsamtalsfundi að eins á tveim stöðum í Nýja Íslandi—á Gimli og að Hnausum í Breiðuvík. Eftir þá fundi skyldi kirkjuvígslan í Mikley fram fara. En daginn áðr en eg átti að leggja á stað héðan frá Winnipeg norðr til Nýja Íslands í því skyni að vera á fundum þessum og vígja kirkjuna í eynni fékk eg bréf frá skrifara Mikleyjar-safnaðar, þar sem mér er skýrt frá því, að meiri hluti safnaðarfulltrúanna þar vilji, að kirkjuvígslunni sé

frestað sökum mislinga, er þá gangi í þeirri byggð. En vegna samtalsfundanna í byggðunum á meginlandi, sem auglýstir höfðu verið, hlaut eg þó að fara norðr. Séra N. Steingrímr Þorláksson í Selkirk var fastráðinn í því að vera með mér á þeirri ferð. Í söfnuði hans í Selkirk skyldi og samtalsfundr haldinn á sunnudagskvöld 9. Marz. Enda vorum við séra Friðrik J. Bergmann komnir þangað í tœka tíð. En hvorki séra Björn B. Jónsson né séra Hans B. Thorgrímsen gat komið. Selkirk-fundrinn var fjölmennr—í kirkju safnaðarins þar. Inngangsrœðuna hélt séra Friðrik. En efnið á þeim samtalsfundi og eins hinum, sem síðar voru haldnir í Nýja Íslandi, var um það *að trúa kristilega*. Næsta dag sneri séra Friðrik heimleiðis til Winnipeg—því hann gat ekki verið burtu frá kennslustarfi sínu í Wesley College—, en við séra Steingrímr ókum norðr að Gimli og höfðum mjög greiða og góða ferð.

Að kvöldi næsta dags, þriðjud. 11. Marz, var haldinn samtalsfundrinn á Gimli. Hann átti að verða fyrr um daginn, en jarðarför stúlku einnar þar í nágrenninu, dóttur eins af frumbyggjum þeirrar byggðar (Árna Oddssonar frá Grenivík við Eyjafjörð), sem látizt hafði eftir langan og harðan sjúkdóm, hamlaði því. Líkfylgdin var mjög fjölmenn og útfararathöfnin gekk inn á hinn fyrirfram ákveðna fundartíma. Varð því að fresta fundinum til kvölds, og fyrir þá sök varð hann fámennari en ella myndi. Það varð mitt hlutverk að halda inngangsrœðuna á þeim fundi. En sjálfr var drottinn áðr búinn að halda þar inngangsrœðu verklega með sorginni þar á staðnum út af láti stúlkunnar, sem eðlilega var svo augsýnileg við útförina hjá hinum aldrhnignu foreldrum, unnusta hennar og mörgum öðrum. Slík sorg er hin lang-bezta inngangsrœða, þegar umtalsefnið er um það „að trúa kristilega“, eins og eg líka við það tœkifœri minntist á. Elskan syrgjandi andspænis dauðanum hefir það í för með sér, að meginmál trúar vorrar, hið dýrðlega sannleiksmál um Jesúm Krist krossfestan, dáinn og frá dauðum upp risinn, kemr fram úthleypt fyrir hinum andlegu augum vorum.

Á miðvikudag fórum við séra Steingrímr ásamt séra Rúnólfi Marteinssyni norðr eftir Winnipeg-vatni allt til Hnausa í

Breiðuvík. Og í skólahúsinu þar var hinn ákveðni trúarsamtalsfundr haldinn eftir hádegi næsta dag, hinn 13. Séra Steingrímr hélt inngangsrœðuna á þeim fundi. Og svo töluðum vér til skiftis, þessir þrír prestar. Enginn leikmaðr tók þar til máls, en auðsætt var, að almennt var þeim umrœðum veitt hin ágætasta eftirtekt. Og víst voru menn þar engu síðr þakklátir fyrir það, sem talað var, en á fundunum hinum. En fremr var þessi fundr fámennr, hvernig sem á því kann að hafa staðið.

Á föstudag, hinn 14., var veðrið, sem að undanförnu hafði verið hið ágætasta, tekið að versna, komið frost og fjúk nokkurt. Þá héldum vér prestarnir norðr að Íslendingafljóti til guðsþjónustusamkomu í Lundi, sem fyrirfram hafði boðuð verið. Og prédikaði eg þar, að áliðnum degi, í félagshúsi einu, sem bœndr hafa reist, út af öðru orði Jesú á krossinum. Í því húsi heldr Brœðrasöfnuðr, sem séra Oddr V. Gíslason þjónar, guðsþjónustur sínar. Áðr en guðsþjónusta þessi byrjaði var sendimaðr kominn þangað upp að Fljóti utan úr Mikley með boð til séra Rúnólfs um að bregða sér út í ey til að jarðsyngja nýlátna konu. En með því að hann var þá all-lasinn og veðrið tekið að harðna þorðum vér ekki að láta hann fara í þá ferð. Í hans stað fór séra Steingrímr út samkvæmt góðfúslegu tilboði hans, og fór þegar undir eins um kvöldið, ætlaði svo að koma á næsta degi þaðan að utan og prédika á Gimli á sunnudaginn 16. Marz, og sama dag átti eg að prédika í syðra skólahúsi Árnesbyggðar. En þetta fór mjög á aðra leið. Hr. Tryggvi Ingjaldsson, einn af frumbyggjunum í landnáminu nýja upp af Efri byggðinni við Íslendingafljót, og einn þeirra, er sátu í fyrra á kirkjuþinginu á Gimli, ók með séra Steingrím út til Mikleyjar. En eftir að þeir voru farnir vorum við séra Rúnólfr á smáfundi einum í húsi hr. Kristjóns Finnssonar með fáeinum mönnum úr nágrenninu til þess að rœða um kirkjumála-ágreining nokkurn, er þar hefir risið upp og leitt til þess, að séra Oddr hefir sagt Brœðrasöfnuði upp prestsþjónustu. Þetta var tilraun til að miðla málum. En óvíst er, hvort nokkur verðr árangrinn. Einhuga um það virtust þó allir þar vera, að tvískifting í

safnaðarlegu tilliti á því svæði — við Fljótið hið neðra — geti ómögulega orðið kirkjulífinu til eflingar. Búizt var við, að flokkarnir hefði síðar og áðr en langt um liði annan samtalsfund til þess að reyna að jafna ágreiningsmál sitt og ná kirkjulegri samvinnu, sem og sannarlega er brýn lífsnauðsyn fyrir almenning á því svæði.

Eftir hinn umgetna samrœðufund, sem ekki var úti fyrr en nokkru eftir að dimmt var orðið, gistum við séra Rúnólfr að Ósi hjá hr. Lárusi Björnssyni um nóttina í bezta yfirlæti. En er við vöknuðum næsta morgun, var nálega glórulaus blindbylr skollinn á. Snjókyngið, sem hlóð niðr, var fjarskamikið, stormrinn bálhvass og frostið hart. Út í þessa iðu lögðum við séra Rúnólfr þó og héldum suðr eftir skógarbrautinni þar til við komum að Kirkjubœ örskammt norðr frá Hnausum til hr. Baldvins Jónssonar, kirkjuþingsmanns frá í fyrra. Þá komumst við ekki lengra fyrir ófœrð og harðviðri. Hvíldumst við svo þar allt til mánudags. Þá var veðrinu loks tekið að slota. Þó fórum við þann dag að eins að Hnausum og sátum þar hjá hr. Birni Skaftason allt til fimmtudagsmorguns. Um gestrisnina á þessum stöðum þarf ekki að tala. Hún var margreynd áðr. Á miðvikudag kom séra Steingrímr heill á hófi úr eynni. En útför konunnar þar hafði dregizt til þriðjudags. Til allrar hamingju var troðin slóð eftir endilöngu Nýja Íslandi áðr en við séra Steingrímr lögðum á stað með séra Rúnólfi suðr frá Hnausum og milt og gott veðr komið, svo akferðin þaðan og að Gimli gekk slysalaust og hindrunarlítið. Á Mœri, 3 mílur fyrir norðan Gimli, skildum við utanbyggðarmennirnir við séra Rúnólf á heimili hans. Um nóttina á Gimli vorum við hjá hr. Stefáni Jones, þar sem við einnig höfðum gist á norðrleiðinni, og nutum að nýju alls hins bezta. Næsta dag komumst við alla leið til Selkirk. Þá bráðnaði snjórinn óðum og hœg rigning kom, er á leið daginn. Mjög þungfœrt var œkið þangað til kom upp á ísinn á Rauðá. Og eg var sárþreyttr, er eg háttaði um kvöldið í húsi séra Steingríms. Á laugardagsmorgun kom eg heim með járnbrautinni frá Selkirk.

Þetta er í fyrsta sinn, sem trúarsamtalsfundir hafa haldnir

verið í Nýja Íslandi á tímabili því, er liðið er síðan kirkjufélag vort var stofnað, að undanteknum samskonar fundi að Gimli í sambandi við ársþing þess síðastliðið sumar. Eftir ástœðum heppnuðust fundir þessir vel viðunanlega. Hluttaka leikmanna í rœðuhöldunum á fundinum á Gimli var fullt eins góð og mikil og vér höfum átt að venjast að undanförnu annarsstaðar við slík tœkifœri. En að því er snertir samtalsfundinn í Selkirk, þann er í þetta skifti var haldinn, þá var það einkennilegt, að það voru eingöngu utansafnaðarmenn, sem þar tóku til máls af hálfu leikmanna. Af vígslu kirkjunnar í Mikley gat samkvæmt áðr sögðu ekki orðið í þetta sinn. En þessi ferð vor til samtalsfundanna í Nýja Íslandi verðr mönnum líklega lengi minnisstœð sökum hins stórfellda snjó-áfellis, sem kom fyrir að þeim nýafstöðnum. Eg hefi aldrei séð slíkan hríðarbyl hér í Ameríku. Þetta hefði fyrrum verið kallað gjörningaveðr. En nú er sú hjátrú sem betr fer útdauð hjá fólki voru. Og í augum þeirra, sem hafa lært að *trúa kristilega*, eru slík umbrot í náttúrunni, slík dimm og hörð óveðr, hátíðleg tákn hinna œgilegu mótlætishríða, sem drottinn náðarinnar einatt af vísdómsráði sínu lætr koma fyrir á mannsæfinni, ekki sízt þeirra, sem standa honum allra næst. Af fólki því, er sókti fundi þessa í Selkirk og Nýja Íslandi, muna þá líka væntanlega þeir og þær, sem mest hafa af mótlætisreynslu að segja frá liðnum æfidögum, öllum öðrum betr eftir því sannleiksorði, er við þessi tœkifœri var fram borið um það að *trúa kristilega*.

J. Bj.

---

## Prestaskortrinn.

Eftir séra Bjőrn B. Jónsson.

(Niðrlag.)

En hvernig eigum vér að fara að, svo vér fáum ungu mennina vora efnilegu til að búa sig undir prestskap og gjörast kennimenn hjá oss?

Eina ráðið er að vekja söfnuðina og allan vorn kristna lýð til meðvitundar um skyldu sína í þessu efni. Heilagr andi talaði til safnaðarins í Antíokkíu forðum og sagði:

„Takið frá handa mér Barnabas og Sál til þess verks, er eg hefi þeim ætlað.“ Heilagr andi talar enn til safnaðanna og býðr þeim að „taka frá“ handa sér efnilegustu ungmennin til að vinna það verk, er hann ætlar þeim, gjörast trúboðar og prédikarar. Hlusta söfnuðirnir á bœnafundum sínum og samkomum á þessa rödd heilags anda? Eða finnast þeir hvergi í söfnuðum vorum, Barnabas og Sál? Jú, ungmennin eru til, en söfnuðirnir leita ekki að þeim. Mörg ófundin prestsefni eru vafalaust í sunnudagsskólum vorum og bandalögum. Prestrinn og sunnudagsskólakennararnir eiga að reyna að finna þau. Það á að vera sameiginleg brennandi þrá alls safnaðarins að fá unga menn innan safnaðarins til að búa sig undir að verða trúboðar. Að sjálfsögðu þarf söfnuðrinn þá að bera hina mestu virðing fyrir prédikara-embættinu og sýna það í hvívetna. Þá fer eigi hjá því, að góðir og guðelskandi unglingar verða fúsir að láta velja sig til þess embættis. Mikið gæti líka hver söfnuðr gjört máli þessu til hjálpar með því að hvetja gáfaða unglinga til skólagöngu og, ef á þyrfti að halda, styrkja þá til náms. Væri slík ungmenni send til náms í skóla vorrar eigin kirkju, væri ekki ólíklegt, að margir þeirra hneigðist þar að kennimanns-embættinu, enda þótt þeir alls ekki væri í því ákveðnir, þegar þeir fyrst kœmi í í skólann. Í þessum lútersku skólum yrði þeir vaktir fyrir þann trúboðs-anda, sem þar ríkir.

Og svo eru það líka og umfram allt kristnu foreldrarnir vor á meðal, sem þurfa í þessum skilningi að vakna. Hvað ætti fremr að geta glatt hjarta kristins foreldris en það, að guð virti son þess maklegan þeirrar náðar að verða þjónn Krists og sendiboði? Hví líkjast vorar kristnu mœðr nú ekki lengr þeim Önnu, móður Samúels, Elízabet, móður Jóhannesar skírara, og Evníku, móður Tímóteusar, sem helguðu guði börnin sín frá fœðing þeirra? Sumir foreldrar mega ekki heyra það, að sonr þeirra gjörist Krists þjónn, prestr. Fyrir sumum þeirra vakir það, að staðan er álitin of örðug, of þung. En fyrir sumum foreldrum vakir aftr syndsamleg eigingirni; álíta, að sonrinn geti náð glæsilegri og betr launaðri stöðu. Hvílík synd! Hugsið, kristnu foreldrar, um guð föður, sem svo elskaði

heiminn, að *hann gaf sinn eingetinn son.* Af elsku til vor aumra manna gaf guð oss soninn sinn, meira að segja gaf hann til písla og dauða. Ef vér metum nokkurs þá gjöf guðs, hve ljúft ætti oss þá að vera að gefa guði aftr börn vor og helga þau þjónustunni í guðs ríki, gefa syni vora Kristi, svo hann sendi þá til mannanna með gleðiboðskapinn. Upp á þetta mættum vér syngja hið gullfagra sálmsvers:

,,Hinn góða son mér gafstu þinn,
já, gafst hans líf í dauða,
að lækna synda-sjúkleik minn
og sefa beiskju nauða;
ó, skyldi eg í skautið þitt
þá skorast undan barnið mitt
að leggja ljúfu geði
og lofa þig með gleði?''

En svo eru það um fram allt ungmennin vor sjálf, sem þurfa að vakna. Ef til vill lesa einhverjir unglingar þessar línur. Mig langar til að biðja alla drengina, sem þessi orð sjá eða heyra, að fletta upp spádómsbók Esajasar og lesa þar í 6. kap. átta fyrstu versin. Og þegar þeir koma að áttunda versinu, þá hlusti þeir vel á raust hins alvalda, er hann segir: ,,Hvern skal eg senda? Hver vill vera vor erindsreki?'' Og biðji þeir svo guð að gefa sér náð til að svara af öllu hjarta eins og spámaðrinn: ,,Sjá, hér em eg; send þú mig!'' — Ungu vinir! Ætlið ekki, að hið mesta hnoss lífsins sé auðr og upphefð. Álítið ekki, að mesta lánið sé í því fólgið að fljóta með straumnum og elta skugga veraldlegs hégóma. Stórar sálir og göfugir andar fyrirlíta veraldar-auðinn og metorð heimskingjanna. Til þess eins er vert að lifa að vinna eitthvert gott og nytsamt verk, draga úr sársauka lífsins og gleðja meðbrœðrna. Hvað sakar það, þótt vér ekki höfum auð? Jesús var fátœkr. Hvað sakar það, þótt vér séum lítilsvirtir? Jesús var af mönnum fyrirlitinn. Hvað sakar það, þótt vér þurfum að stríða? Jesús stríddi og sál hans var hrygg allt til dauða. — ,,Eg býð þér, þú ungi maðr, að þú rísir upp'' — sagði Jesús. Í Jesú nafni er yðr nú boðið, ungu menn, að rísa upp, rísa upp af svefni og ganga fram og berjast fyrir Krist og kristindóminn meðal landa yðar hér. Konungrinn

býðr yðr að gjörast foringjar í fylkingum hersveita hans Skorizt eigi undan því að gjörast trúboðar og kennimenn. Þér treystið yðr ekki? Jú, Kristr skal fara með yðr, og þá megið þér treysta yðr. Það er eigi verið að rœða um það, að þér vinnið yðr frægð og frama eða verðið ,,miklir menn". Nei, þér eigið að hugsa eins og maðrinn, sem orkti þetta erindi:

,,Þó að eg í anda-stríði
aldrei verði bitrt sverð,
nœgir mér það, ef eg að eins
andans traustr stafr verð.
Þótt eg brjóti' ei borgarmúra
básúnu með sterkum gný,
gjör mig, herra, hirðispípu,
hér sem ljúft sé blásið í!"

Þegar söfnuðir vorir, foreldrarnir og ungmennin vakna til meðvitundar um heilaga skyldu sína, verðr ekki framar neinn prestaskortr hjá oss.

,,Ó, guð! í tíma vek oss vel."

## Nýja skoðanin á biblíunni.

,,The Lutheran", aðal-málgagn General Council-manna, hefir nýlega (20. Febr.) komið með ritstjórnargrein, sem skýrt og skorinort bendir til þess, hve mikið sé í húfi, ef menn aðhyllast hina nýju—,,frjálslyndu"—skoðan á biblíunni. Tilefni greinar þeirrar voru ritgjörðir nokkrar í ,,Independent", mjög merku, en ólútersku trúmála-tímariti, sem út er gefið í New York. Var þar rœtt um hættur á leið guðfrœðinganna, einkum þeirra, er halda vilja fast við þá skoðan á biblíunni, að hún sé í heild sinni guðinnblásin bók. Því ,,Independent" er á móti þeirri skoðan. Í ,,Lutheran" eru nú til fœrð talsvert mörg brot af þessum ritstjórnargreinum í ,,Independent". Meðal annars þetta:

,,Að því er oss virðist hafa þeir, sem nýju skoðanina hafa á biblíunni, lagt fram svo sterkar sannanir fyrir máli sínu og fengið sér svo almennt fylgi, að sú skoðan er nú í reyndinni ofan á. Það lítr ekki út fyrir, að íhaldsstefna hinna eldri

guðfrœðinga, sem kenndu óskeikulleik biblíunnar, verði lengr varin. Svo fáir eru nú orðnir lærðu mennirnir, sem halda þeirri skoðan. Hafi meiri hluti nútíðarguðfrœðinganna, sem nú eru orðnir ofan á, rangt fyrir sér, þá er það skylda hinna yngri að rannsaka rök þau, er menn bera fyrir sig, og leiðrétta ályktanirnar, sem út af þeim hafa verið leiddar."

,,Því muni allir vel eftir því sem algildri reglu, að sannleikrinn er hættulaus, eftir að menn eitt sinn hafa fundið hann, og að ekkert annað er hættulaust. Og muni menn einnig vel eftir því, að allar tilraunir til að hindra leit eftir sannleikanum hvort heldr er beinlínis eða óbeinlínis eru jafnárangrslausar eins og það að vilja skrúfa lok ofan á eldfjall."

Við þessi ummæli gjörir ,,Lutheran" svo látandi athugasemd:

Einhver kynni sennilega að spyrja: Hvernig víkr því við, að ýmsir mestu hœfileikamenn, sem nokkurn tíma hafa birzt í kirkjunni, hálærðir, guðhræddir leitendr sannleikans, voru þess fulltrúa, að þeir hefði fundið sannleikann, og hinu, að ,,sannleikrinn er hættulaus, eftir að menn eitt sinn hafa fundið hann"—svo framarlega sem nýja skoðanin á biblíunni er rétt? Hvað er sannleikr? Er það sannleikr, sem fær ,,meiri hlutann" með sér?

Annað brot úr ,,Independent" hljóðar svo:

,,Með hverju móti verðr því komið til leiðar, að hætta sú og tjón, er óhjákvæmilega hlýtr að leiða af breyting guðfrœðiskenninganna um þetta mál, verði sem minnst?" Upp á þá spurning svarar sama blað þessu: ,,Vér vitum að eins eitt ráð til þessa, en það er í því fólgið, að menn hafi það vel hugfast, að það í trúarbrögðunum, sem snertir skynsemina, hlýtr æfinlega að þoka fyrir því, sem er algjörlega andlegs eðlis. Menn haldi sér fast við guð og muni eftir því, að guð er guð eins fyrir því, þótt sú eða sú sagan um það, að hann hafi í fornöld, nokkrum þúsundum ára fyrir vora tíð, talað við menn, kynni að reynast að eins guðrœkileg þjóðsaga. Guð er guð og faðir vor framvegis og vér höfum heilaga skyldu til að elska hann, þjóna honum og biðja hann, þótt sanna megi, að hann hafi ekki varðveitt líf Jónasar í kviði hvalfiskjarins

eða hina guðhræddu Gyðinga í eldofninum, og oss er eins fyrir það óhætt að treysta hluttekning hans í raunum vorum og umhyggju hans fyrir lífi voru.''

Þessu, sem nú var tilfœrt úr ,,Independent'', svarar ,,Lutheran'' þannig:

Vera má, að ritstjóri blaðsins ,,Independent'' og ýmsir aðrir, sem aðhyllast nýju skoðanina á biblíunni, geti án þess að bifast haldið sér í guð þrátt fyrir það, þótt þeir hafi sannfœrzt um, að margt finnist í bók þeirri, er Kristr og postular hans ávallt könnuðust við sem heilaga ritning, af guði innblásna og óbrigðula reglu fyrir trú manna og lífi, sem ekki sé annað en guðrœkilegar þjóðsagnir. En hitt er víst, að fyrir lang-flestum mönnum, sem á annað borð láta af því verða að tileinka sér þessa ,,frjálslyndu'' skoðan á ritningunni, fer svo, að þeir geta ekki haldið kristinni trú fastri, hversu mikilli orku sem þeir beita til þess að missa ekki trúna á guð.

Auðsætt er það, að drottinn vor Jesús Kristr trúði sögunni um Jónas spámann og talaði um hana sem teikn greftrunar sinnar og upprisu (sjá Matt. 12, 39—40). Og vér höfum gilda ástœðu til að ætla, að hann hafi litið á söguna um ,,hina guðhræddu Gyðinga í eldofninum'' sem bókstaflega sanna. En samkvæmt nýju guðfrœðisskoðaninni á hann annaðhvort ekki að hafa haft neitt vit á því, hvað í slíkum efnum var satt og ósatt, eins og allir samtíðarmenn hans meðal Gyðinga, ellegar, hafi hann vitað betr, lagað sig algjörlega eftir hjátrú þeirra og hleypidómum og notað hinar guðrœkilegu þjóðsagnir í hinum mikilsmetnu helgiritum þeirra til þess að kenna mönnum háleit siðferðisleg og andleg sannindi. En með því að tileinka sér slíkar skoðanir á Kristi og bók bókanna hafa menn kippt burt sjálfum grundvelli hinnar kristnu trúar sinnar.

Ritstjórinn getr svo lengi sem honum þóknazt sagt: ,,Andi og tilgangr kristindómsins er algjörlega óháðr þessum mismunandi trúarskoðunum, því að hann liggr miklu dýpra en froðumál hinna kirkjulegu trúarjátninga.'' En saga kirkjunnar og teikn tímanna mótmæla þessu. Það er hœgðarleikr fyrir hann að koma með önnur eins orð og þessi: ,,Það eitt

getum vér sagt, að vér verðum að forðast hættu trúleysisins með því að vera guðhræddir, alveg á sama hátt og vér hættum því að gjöra illt með því að læra að breyta vel.'' En undirstaða kristinnar trúar eru atburðir þeir og sannindi þau, sem frá er skýrt í guðs orði ritningarinnar; og þegar maðrinn sá eða sá missir trú á því orði og telr sér heimilt að hafna sérhverju því í innihaldi þess, sem eigi fær samrímzt hyggjuviti hans eða tilhneigingum, þá mun reyndin verða sú, að honum veitir afar torvelt að vera guðræddr, í hinum biblíulega skilningi þess orðs.

Við því má búast, að við oss verði sagt, að kristnir menn hafi verið til áðr en nýja testamentið varð til. Og að sjálfsögðu játum vér því hiklaust. En það, sem þessum fyrstu kristnu mönnum var kennt, og það, sem þeir trúðu, voru einmitt hinir miklu atburðir og lærdómar, sem síðar voru í letr fœrðir í guðspjöllunum og öllum hinum ritum nýja testamentisins. Og myndi postularnir við engan þann mann hafa kannazt sem kristinn mann, sem þeim neitaði. Þeir lögðu hina mestu áherzlu á þá atburði og lærdóm trúarinnar; og trúarjátningarnar, sem lýsa yfir því, að það sé sannleikr sáluhjálparinnar, eru ekkert ,,froðumál'', heldr vitnisburðr hinnar sönnu kirkju um ,,þá trú, sem heilögum hefir einu sinni verið kennd''.



,,ALDAMÓT'' fyrir 1901 eru nýkomin út, prentuð eins og í fyrra og hitt hið fyrra hér í Winnipeg í prentsmiðju Lögbergs. Það er ellefti árgangr þess kirkjumálarits, sem nú eins og áðr hefir verið gefið út af prestum kirkjufélagsins vestrislenzka. Og eins og áðr er séra Friðrik J. Bergmann ritstjóri þess. Enda er lang-mest í þessu ,,Aldamóta''-hefti eftir hann. Efnið er þetta: 1. Aldaróðr (,,Guð veit það''), langt og fagrt kvæði eftir séra Valdemar Briem í minning síðastliðinnar aldar, einkum að því er snertir þjóð vora og Ísland. 2. ,,Þrándr í Götu'', fyrirlestr frá síðasta kirkjuþingi voru eftir ritstjóra ,,Sameiningarinnar''. 3. ,,Bókstafrinn og andinn'', kirkjuþingsfyrirlestr einnig frá því í fyrra eftir séra Friðrik. 4. ,,Undir linditrjánum'', bókmenntaþáttr með

sama sniði og áðr hefir verið í „Aldamótum". Þar eru ritdómar kveðnir upp yfir 23 nýjum bókum og ritum íslenzkum. Fyrirlestrinn um „bókstafinn og andann" er afar langr, enda sleppti höfundrinn nokkru úr því erindi, er hann flutti það á kirkjuþinginu. Séra Friðrik segir sjálfr (á bls. 148), að þessi ritgjörð sín taki við þar sem ritgjörð séra Jóns Helgasonar um tilorðning gamla testamentisins í Tímariti Bókmenntafélagsins hættir. Skoðan þeirra á gamla testamentinu fer í sömu áttina. Þó tekr séra Friðrik það fram í þessum fyrirlestri, að langt sé frá því, að rannsóknirnar á þeim bókum ritningarinnar, sem hér er um að rœða, sé enn til lykta leiddar, og miklar líkur sé til, að ýmislegt breytist og þokist aftr nær hinu gamla (bls. 91). Líka telr hann það fremr ills vita en góðs, að „á Íslandi hefir eiginlega engin einasta rödd látið til sín heyra til að andmæla hinum nýju skoðunum síðan farið var að halda þeim svo eindregið fram" (bls. 74). Séra Lárus Halldórsson hefir nú reyndar í blaði sínu „Fríkirkjunni" sterklega og marg-oft mótmælt „kritíkinni", eins hr. Östlund aðventista-trúboði í „Frœkornum". Og því hefði ekki átt að gleyma, þó að hvorugr þeirra heyri íslenzku þjóðkirkjunni til. Hitt er víst, að allt fólk í þjóðkirkjunni hefir steinþagað við nýmælunum. Séra Friðrik gizkar á, að helmingr þeirra manna, sem fengið hafa guðfrœðilega menntan, sé fylgjandi hinum nýju skoðunum, en „hinn helmingrinn"—segir hann—„hefir kristna alþýðu að lang-mestu leyti á sínu bandi býsna eindregið" (bls. 73). „Lengra en þetta eru menn nú enn þá ekki komnir þar jafnvel sem lengst er búið að rœða málið" o. s. frv. Enda leikr auðheyrt nokkur vafi á því í huga hans, hvort þessar nýju skoðanir, sem hann þó helzt er hlynntr, muni „eiga því happi að hrósa að bera sigr úr býtum á endanum" (bls. 71).

Ritdómar séra Friðriks eru að vanda skemmtilegir, og sumir einkar rœkilegir.

Prentunar-frágangrinn á þessum síðustu „Aldamótum" er mjög prýðilegr. Verðið er eins og áðr að eins 50 cts. Ágóði af sölu ritsins rennr í skólasjóð kirkjufélagsins eins og flestum mun kunnugt.

---

„Skóla-ljóð" heitir kvæðasafn nokkurt, sem síðastliðið haust kom út í Reykjavík á kostnað Sigfúsar Eymundssonar, en búið undir prentan af séra Þórhalli Bjarnarsyni, lektor. Það eru úrvalsljóð eftir íslenzk skáld 22 að tölu, öll nema eitt

(Eggert Ólafsson) frá 19. öldinni. Lang-mest af ljóðum þessum er þó eftir þá Jónas Hallgrímsson og Mattías Jokkumsson, þar næst eftir Steingrím Thorsteinsson. Kvæðin eru valin með tilliti þess, er búizt er við að helzt sé við hœfi unglinga. Prentunar-frágangrinn er góðr og kvæðavalið heppilegt. Kverið er 128 blaðsíður í litlu 8 blaða broti. Æfi-ágrip hvers höfundar í sem fæstum orðum er prentað á undan kvæðum hans.

---

Nú er Lúkasar guðspjall komið út frá nefndinni í Reykjavík, sem er að eiga við endrbót á íslenzku biblíuþýðingunni, með sama sniði og guðspjöll þeirra Matteusar og Markúsar, sem áðr voru komin. Séra Eiríkr Briem, prestaskólakennari, mun vera sá, sem helzt hefir unnið að þýðing þessa guðspjalls, samkvæmt því, er áðr hefir verið auglýst af hr. biskupinum, Hallgrími Sveinssyni, formanni nefndarinnar.—Sitthvað finnst oss athugavert við hinar nýju þýðingar guðspjallanna, helzt ýmsar óþarfar orðabreytingar frá því, sem verið hefir; en í heild sinni eru þýðingar þessar miklu nákvæmari en þær, sem að undanförnu hafa verið í höndum íslenzks almennings. — Hvert um sig af guðspjöllunum, sem þannig eru út komin, kostar að eins fáeina aura (15, 10 og 15 aura). Það mætti vel nota þessa guðspjalla-ritlinga í sunnudagsskólum vorum.

---

Í síðasta hefti ,,Eimreiðarinnar" (VIII, 1. h.) er ritgjörð ein löng og stór-merkileg, sem vér viljum benda lesendum vorum á. Hún er um alþýðuskólana í Danmörk. Höfundrinn er hr. Jón Jónsson. Það er einhver sú ágætasta ritgjörð menntamálum viðvíkjandi, sem nokkurn tíma hefir birzt á vorri tungu.

---



,,SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 númer á ári. Sunnudagsskólablaðið ,,Kennarinn" fylgir með ,,Sam." í hverjum mánuði. Ritstjóri ,,Kennarans" er séra N. Steingrímr Þorláksson, West Selkirk, Man. Árgangsverð beggja blaðanna að eins $1; greiðist fyrirfram.—Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason, (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Ólafr S. Þorgeirsson. Björn B. Jónsson, N. Steingrímr Þorláksson.

Prentsmiðja Lögbergs. — Winnipeg.